Dægrastytting
eða
hinn gamli Spámaður

Snúið úr dönsku.

Ak. 1854.

# DÆGRASTYTTÍNG

eða

# hinn gamli Spámaður.

Snúið úr dönsku.



AKUREYRI.

Prentað á kostnað J. Grímssonar, af H. Helgasyni.

1854.

☞ *Til þess að hafa skemmtun af þessum spámanni þurfa tveir teníngar. Fyrst aðgætir maður í „yfirliti efnisins“ hvað maður vill forvitnast um, og setur á sig stafinn, sem stendur fyrir framan, því hann svarar til sama stafs í töflunni; síðan kastar maður teníngunum, telur augun, sem koma upp, saman, og sýnir þá sú tala erindið, en rómverska talan fyrir ofan í hvaða flokki það er, t. a. m. vilji maður vita „hvort ferðin gengur vel,“ þar er Q fyrir framan; það skal koma upp ás og daus, það gjörir þrjá. Að þessari tölu, (nefnil. 3.) leita jeg undir Q í töflunni, og þar standa XIII fyrir ofan. Erindið, sem svarar upp á það, sem maður vill vita, verður þá: hið 3. í XIII. flokki.*

## YFIRLIT EFNISINS.

**P,** hvort það, sem glatað eða stolið er, finnst aptur.

**Q,** hvort ferðin gengur vel.

**R,** — maður verður lánglífur.

**S,** — hinn veiki kemst á fætur aptur.

**T,** um karlmanns dauða og endalykt.

**U,** — kvénnmanns dauða og endalykt.

---

## Tafla,

er sýnir hvar sjerhver spádómur finnst í kveðlíngunum; rómverska talan merkir flokk, en síffrutalan erindi.

---

| | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **A,** | V. | III. | II. | I. | IV. | VII. | VI. | VIII. | XI. | X. | IX. |
| | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. |
| **B,** | IX. | VI. | VIII. | VII. | V. | III. | I. | II. | IV. | XI. | X. |
| | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. |
| **C,** | XI. | VIII. | V. | IX. | III. | V. | IV. | I. | VI. | VII. | II. |
| | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. |
| **D,** | III. | I. | IV. | II. | VI. | VIII. | X. | IX. | VII. | V. | XI. |
| | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. |
| **E,** | IV. | V. | I. | VI. | VII. | IX. | XI. | X. | VIII. | II. | III. |
| | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. |
| **F,** | X. | VII. | VI. | VIII. | II. | XI. | IX. | V. | III. | I. | IV. |
| | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. |
| **G,** | VI. | XI. | IX. | V. | I. | X. | III. | VII. | II. | IV. | VIII. |
| | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. |

**H,** II. IX. III. XI. X. VI. VII. IV. I. VIII. V.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9. 10. 11. 12.

**I,** VIII. II. VII. III. XI. IV. V. VI. X. IX. I.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9. 10. 11. 12.

**K,** I. IV. XI. X. IX. II. VIII. III. V. VI. VII.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9. 10. 11. 12.

**L,** VII. X. X. IV. VIII. I. II. XI. IX. III. VI.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9. 10. 11. 12.

**M,** XII. XIV. XIII. XVI. XV. XVII. XX.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8.
XIV. XX. XIX. XVIII.
9. 10. 11. 12.

**N,** XX. XVIII. XIX. XVII. XVI. XV. XIV.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8.
XIII. XIII. XII. XVII.
9. 10. 11. 12.

**O,** XIV. XV. XIV. XIII. XVII. XVIII. XIX.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8.
XX. XVI. XIII. XII.
9. 10. 11. 12.

**P,** *XIX. XII. XVIII. XV. XVIII. XVI. XIII.*
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8.
XVII. XIX. XX. XIV.
9. 10. 11. 12.

**Q,** XVII. XIII. XII. XIX. XIV. XX. XVI. XVIII.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9.
XX. XV. XV.
10. 11. 12.

**R,** XVIII. XIX. XX. XVIII. XIX. XIV. XII. XV.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9.
XVII. XVI. XIII.
10. 11. 12.

**S,** XV. XVI. XVII. XX. XIII. XII. XVII. XVI.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9.
XVIII. XIV. XIX.
10. 11. 12.

**T,** XIII. XVII. XVI. XIV. XX. XIX. XV. XII.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9.
XV. XVIII. XVI.
10. 11. 12.

**U,** XVI. XX. XV. XII. XII. XIII. XVIII. XIX.
2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9.
XIV. XVII. XX.
10. 11. 12.

---

## *I.* Flokkur, Satúnus.

2. Ef barn þitt venur æsku í á leiðindi þannig, síðar færðu sorg að því, það seint verður að manni.

3. Fautalegur ertu ei, nje yfrið ljótur sýnum; egin þótta argast grey orðróm spillir þínum.

4. Lukku sækir þína þú, þjáníngar með högum; ekki gengur eins til nú, og á fyrri dögum.

5. Einn kvennfjanda öðlast þú, út þig brynja máttu með þolgæði, og þenk að nú þar við búa áttu.

6. Þín að biðja' hann þorir sízt, þú ert stoltar-kvendi, og má ske trúir valla víst, að við þig heit sín endi.

7. Víntapparinn vel þjer ann; væru allir slíkir, auðugur fljótt yrði hann, en þeir snauðum líkir.

8. Forlát þó að þessar spár, þjer lesi við eyra: þú getur ekki gipzt í ár, gefðu' ei um það meira.

9. Meiníng sína segir hann, sá er hans kostur beztur, fulltrúa hvern metur mann, mun það einn hans brestur.

10. Ef ríkur ertu, en kannt þá eptir meiru skrefa, hver vill nú þeim ekkert á, auðlegð nokkra gefa.

17. Íslenzkt er þitt ættarblóð, en sá hún vill unna, hann skal brúka meiri móð, og málsnild franska kunna.

12. Lát hann vel upp vaxa fyrst, og vakna' af bernsku svefni, síðan skaltu sjá með list, hann sje þitt gott mannsefni.

*II.* Flokkur, Júpíter.

2. Meðan svo einfaldur ert, ei kannt ríkdóm fánga, þeim svoddan girnist, sýnist vert, í sældar skóla gánga.

3. Hans náttúra' er harla góð, herrann lengi' hann spari; þó hóruhest hann haldi þjóð, í hvinnsku kann ei parið.

4. Meyjan gefst þjer mennta kæn, er margföld dyggðin spennir, Júnó, Pallas, Venus væn, voru sem dupt hjá henni.

5. Ertu bæði úng og fríð, og allforstöndug píka, þenktu samt ei, þornahlíð, að þinn ei hittir líka.

6. Frá þjer gefðu þánka þann, það kann ei framgánga, hún vill eiga ekkjumann, ef hann kynni fánga.

7. Drósin verður dyggðagjörn, og dæilegust kvenna, svo herramenn og hoffólks börn henni fyrir brenna.

8. Hjá kokknum franska kanntu þjer kjósa máltíð þekka, því hann æðsta afhald tjer þeim eta mest og drekka.

6. Fyrir biðlum þarftu' ei, baugarist, bera' að sinni kvíða, lángur er tíminn, lærðu fyrst listugan graut að smíða.

10. Vinur þinn, sem þenkir á, að þínum

aurum hyggur, meðan eyðist sjóður sá, [redacted] mun hann þjer tryggur.

11. Auðnu leitar þinnar þú, í þjónustu til hófa, svo þjer gjarnan sæmdi nú, svefn og hvílu prófa.

12. Ljúf og fróm er lundin þín, líka hugur kátur; en þar tappast öl og vín, ertu nóg þorstlátur.

*III.* Flokkur, Marta.

2. Værirðu fríð svo faldabil, og fróm þú mættir heita, sannlega einhver yrði til, ástar þinnar leita.

3. Galinskapur helzt við hjer, heims meðan fuglar kvaka; fer það illa fyrir þjer, ef færðu engan maka.

4. Auðinn þann, sem aflar þjer, í einrúmi þú felur, en sem dauður ertu hjer, annar fram hann selur.

5. Haldi' hann sig frá hórujakt, hvers kyns drykk og spilum, svo gefst honum æra, akt og auðlegð stór með skilum.

6. Listugheit og glaðvært geð gefur þjer afhald bezta, þó þar stundum megi með meinast falsið vesta.

7. Argur, sínkur, engum kær, afglapi má heita, hverju svara mundir, mær, mætti' hann til þín leita?

8. Þann, sem girnist, þú kannt fá, ef þar til vel hann svarar, en kann ske hann þjer hverfi frá; hvernig mun þá fara?

9. Úng giptist að árum fám, og munt tignuð vera; hún er af þeim aldintrjám, er ávöxt snemma bera.

10. Sá má drottni þakka þíðt, er þvílík hlotnast píka; því þú elskar einka blíðt, og elskast þannig líka.

11. Vúlkanus svo var ei kær, Veneri forðum daga, sem þú, mannval, mjög frábær, meyjum vel kannt haga.

12. Erfiði og ákefð nú ekki parið vinna; gæfu þá, sem sækir þú, í svefni muntu finna.

*IV.* Flokkur, Sól.

2. Athöfn góðri áttu hjer, í ótta guðs fram halda, hvað menn ei launa, mun hann þjer í miskun endurgjalda.

3. Nokkuð ill, en ærleg þó, er hún, því mátt trúa, hjólið lukku hana bjó, og hennar til mun snúa.

4. Værir þú svo drjúg af dyggð, sem dáfríða þig segja, finndist ei í allri byggð önnur þvílík meyja.

5. Vinsæld þinni, vífið mjótt, veitist lofstýr slíkur: öll gleðst þar við íta drótt, er þú burtu víkur.

6. Vertu glaður, vífið mjótt vona' eg senn þú fáir, en böl er það, ef brókarsótt brúði slíka þjáir.

7. Heiður, ríkdóm, hefð og makt hlýtur, en það skal eigi hollum dyggðum hans til lagt, heldur lukku vegi.

8. Dyggð þín stærsta er það ein, auð ei kæran hefur, en hitt ljótust lastagrein, að lengi nóg þú sefur.

9. Giptíng ríka girnist þú, og gjörir þar til skrefa, stundin koma seint mun sú, sem þjer vill það gefa.

10. Innan skamms mun auðnan þjer úngan biðil færa, ef þig vel siðaða sjer, svo hefur hann þig kæra.

11. Víst er þessi vinurinn vel trúr,. sem þú hyggur, honnm unni hugur þinn, hann er þjer og tryggur.

12. þessi píka er þjer allt of góð, máttu heyra, til þinna líka helzt þjer halt, hugsaðu' ei upp á meira.

V. Flokkur, Venus.

2. Færðu strax nú festarkvon, fyrir þarft' ei kvíða, en gæt hvað áður Akteon af þeim mátti líða.

3. Fel þinn drottni' á hendur hag, og holla lífs umsorgun, vit svo það ei varð í dag, verða kann á morgun.

4. Nær þú fer að fremja jagt, fagna dýrin skógar, því þín fáheyrð frómleiks makt, færstum af þeim lógar.

5. Ert þú honum allt of dýr, ekki' er slíkt að nunna, hann örvæntir sín auðlegð rír, orka muni því kunna.

6. Senn fær þú það mannval, mey, sem mest væri elskandi; hans jafníngi hittist ei, á heilu þessu landi.

7. Skynsemi þín skarpsýn er, og skörug-legt málfæri, hjer út af þú hrósar þjer, heldur meir enn bæri.

8. Hann mun verða svo og svo; ef sínum líkist föður, þá geng jeg í þánka tvo, mjer þykir hann ei útsjeður.

9. Hættu að spilla hentri tíð, þig hatar meyjan bjarta, hún getur ekki gjörzt þjer blíð, þó gjarnan vildi' af hjarta.

10. Sjá! þá dóttir sýnist mjer, senn muni dauðinn hremma, fragran blóma fljóðið ber, en fölnar heldur snemma.

11. Þó frómur sjertu, samt er þinn símálugur kjaptur, fái' ei vild þín frangáng sinn, fljótt vex reiðikraptur.

12. Listugur drífðu lukkuspil, og leik á efstu sölum, því auðuga færðu faldabil, með fimmtán þúsund dölum.

*VI.* Flokkur, Merkúríus.

2. Við annan hefur lagt sitt lag, þinn lista vinur fróði; gefðu honum góðandag, hann gabbar þig í hljóði.

3. Segðu mjer það, svanninn hreinn, svar hvert mundir veita, ef sextugur ýngissveinn ætlaði þín að leita?

4. Meyjan segir svo um þig: svei, svei, fjanda ljóta, hann skal aldrei eiga mig, aðrar meiga' hans njóta.

5. Saman kemur ei ávalt auðna og for-

stand manna, fyrir því jafnan hóf þú halt, hálfgalinn þig sanna.

6. Náði guð þinn mæta mann, þú mjög ber þykkju bráða, en munt þó verða mild við hann, megir þú öllu ráða.

7. Veiztu hvernig hentast er, í hrúgur auðinn færa: ætíð meira ávinnir, enn þú kannt fortæra.

8. Verðugan þú virðir þig, vífsins bezta' að njóta, en þú munt, það uggir mig, einn kvennfjanda hljóta.

9. Gefðu hann ekki enn þjer frá, æru muntu hljóta, laglega fara lítið má, þeim lágrar stjettar njóta.

10. Þolgóðan með þíða lund, þig vel fallinn segi, í mannraunum og mótgángs stund, en meðlætinu eigi.

11. Láttu' hann ekki yðka sig, í Amors verka kófi, annars víst það uggir mig, eitthvað þar af prófi.

12. Til hofa mann þig hver einn sjer harla vel skikkaðan, kompliment þinn eini er ávinníngur þaðan.

*VII,* Flokkur, Lúna.

2. Í hórukróm er kærast þjer, kvennsömum, að vera, hvað sem líður, hugsast mjer, þú hafir þörf bartskera.

3. Ef þú óspart spandjerar, spilið vel mun gánga, hún lætur sig helzt með það, sem hinar aðrar, fánga.

3. Foreldranna feril hann fetar æfi lánga, fyrir því ekki annars kann, enn allvel honum gánga.

5. Get jeg senn þjer gefist mann, sem glatar píku þinni; ei síður mig uggir hann Akteons verðlaun finni.

6. Á þíns herra góðri gunst gjörvalt traust þitt metur, en spyr, hvort dauðans kæna kunst kautión fyrir hann setur.

7. Æðri veitist auðna þjer, en forskuldað hefur; fróma mey, sem fegurð ber, forsjónin þjer gefur.

8. Hvað skal eign og auður þjer, örgustum nískara, lát hann öðrum lánast hjer, sem loflegar með kann fara.

9. Enga gunst hann geldur þjer mót góðri elsku þinni, því hann litla þekkíng ber á þínu dyggða sinni.

10. Hreinlíf ertu auðgrund svinn, æra og tign þig styður, þó biðjir tíðum bónda þinn, buxur leysa niður.

11. Ein sú dyggð, sem elskar þú, er þinn forsjáleiki, hvar fyrir viltu vaða nú í veraldar elsku reiki.

12. Veit hún sjálf að venja sig, með vönd hefur ekki að gera, hún mun í elli hugga þig, og heilla stoð þín vera.

*VIII.* Flokkur, Apolló.

2. Ef á barni úngu þín engum vendi slítur, aldrei það um æfi sín upphefð nokkra hlýtur.

3. Það er sannast sagt af þjer, þú sýnist dyggða lakur, því ágirndin þrengir sjer í þinn mannkosta akur.

4. Einhvern víst að eignast mann er í þínu valdi; þenktu aldrei þó að hann þig við trúskap haldi.

5. Listugur vertu, liljan gulls á laun þig kæran hefur, haldir þú því fram til fulls, ferðugt já hún gefur.

6. Æru'- og dyggða-stundar stig, stórlega lesti hatar; því mega allir elska þig, ef ei aldrei sæmdum glatar.

7. Allra dyyggða æru krans ertu' og blóminn kvenna, lukkusælt er líf þess manns, sem leyfist þig að spenna.

8. Málsnjöll, fríð er faldaeik, og furðu ljúf að heyra; en hóf er bezt í hverjum leik, hjer um ekki meira.

9. Innan skamms mun auðnan þjer eina kvinnu veita, sem fríðleikans sjónargler og sæmda krans má heita.

10. Ef vífunum þína vinskaps kunst viltu ekki spara, mun þjer ljenast mikil gunst, meðan hún kann að vara.

11. Lukkan er ei enn svo blind, um þig rjett kann dæma, og fyrir þína frómleiks mynd furðu vel þig sæma.

12. Treystu ekki upp á hann, um þig lítið gefur, eins þig leika út því kann, sem öðrum gjört hann hefur.

*IX.* Flokkur, Vesta.

2. Sá þú hlýtur, meyja, mann, má þinn líki kallast; tryggð og æru elskar hann, að engum löstum hallast.

3. Ef þú heldur sama sið, og sífelt pýngj-

ur tæmir, held jeg ekki hrökkvi við heilt eitt greifadæmi.

4. Honum anntu, hríngaskorð, en hann þjer miklu framar, það kostar ekki utan orð, eruð þið pússuð saman.

5. Örlæti þitt of frekt þjer er svo gott sem snara, þess meiri sem þín manndyggð er, mun hún skemur vara.

6. Eg óttast dauðans ákefð þúng að henni muni herða; börn þau frábær eru úng, öldruð sjaldan verða.

7. Treystu ekki of frekt á iðni þína ríka, gott allt kemur guði frá, hann gefur þeim honum líkar.

8. Vingjarnlegt þó vífið sje, vittu af flærð það skeður, hefur hún við þig háð og spje; en hamíngjan er þjer meður.

9. Íllt eða gott í nokkurn stað af þjer vil ei segja, virða og þakka víst má það, vilji eg að eins þegja.

10. Meðan að lifir muntu sízt manna hylli njóta, af dauða þínum dróttir víst drjúgan fögnuð hljóta.

11. Lát þann únga örfafrey iðka sig í stríði, hver, sem kúlan hæfir ei, hann kemst upp um síðir.

12. Giptast munt, en hægt um haf, hyggju ber ei sjúka, þó með þjer njóti aðrir af því ei kannt sjálfur brúka.

X. Flokkur, Vúlkanus.

2. Um þig mælir meyjan þín: mun hann svo Óðinn trylla, að meini' ætli eg æsku mín einum svoddan spilla.

3. Hæversklegust hegðan þín hefur það forþjenað, að kvennfólkið með kærleik sín koss þjer fengi ljenað.

4. Öllum mönnum ertu kær, með ásýnd harla bjarta, varastu hin mæta mær, að metnist ei þitt hjarta.

5. Meyjan þessi, mjer svo lízt, móður spor mun herða, auðráðið því er það víst, hvað úr henni muni verða.

6. Drykkja' um of, sem dans og spil, dróttum aldrei hefur auðlegð stóra aukið til, og ei þjer heldur gefur.

7. Treystu ekki á unnustans orðaglensið kalda; innan skamms úngbarni hans undir skírn mátt halda.

8. Vel lærður þó virðist mjer vísdóms jurtir plokka; bakarastjett er betri þjer, brugga öl og kokka.

9. Fullsæll ertu eflaust þá, ef þjer nægja lætur lánið það, sem ljenast má, lífs um daga' og nætur.

10. Lærdóms stundar menntir mest, mun það eptir vonum, giptíng, æra og gózið flest gefst og færist honum.

11. Undir höggin bak þitt breið, brátt þjer lukkan gefur unnustu með atlot greið, eins og forþjent hefur.

12. Illur víst þinn ektamann er í sinni veru, eins þú verður viður hann; því vond þið bæði eruð.

*XI.* Flokkur, Cýbele.

2. Náttúrugóður nóg er hann, og nær hæfi skynsamur, en svo tregur, að ekkert kann iðja letitamur.

3. Vinur þinn, sem þenkir á, til þín ber engan kala, þinn hunángssæti munnur má hann mjög fljótt yfirtala.

4. Nunnu hold sú hrundin ber, við hjúskap ei sig felldi, svo lengi klaustur eitt til er í öllu Rómaveldi.

5. Þó peníngalán þitt lítið sje, láttu ei [redacted] þjer finna; með konunni meira færðu fje, því sjáð er lindin tvinna.

6. Lukku sinnar leitar hann, með lærdómi' og forstandi; hann verður einn sá æðsti mann, í öllu þessu landi.

7. Hennar viltu hylli fá, hún og þína líka, þið eruð bæði einu á, og auðnu hreppið ríka.

8. Með lista nægðum lítið þú lukku hjólið temur; þreyðu heldur þar til sú þjer að höndum kemur.

9. Helzt við falli hætt þeim er, sem hátt yfir megn sjer seilast; af jafníngjum þínum þjer þæg mun gunst meðdeilast.

10. Þú óttast drjúgum dag og nótt, að drós ei nokkra fáir, en kamb til hárs þíns færðu fljótt, fyrir því eg spái.

11. Unnusti þinn alsagt er, að ástvin Bachí væri, svo nær gott hann segir þjer, svaraðu: Gott ár, kæri!

12. Öllu trúir, heyrðu hjer, en hirðir engu leyna, af einfeldni það fremur sker, [redacted] falsi, að eg meina.

*XII.* Flokkur, Plútó.

2. Engan framgáng öðlast þinn ásetníngur nýi, af því hann er umvafinn íðil skelmiríi.

3. Undir fönnum felast kann fjársjóður þinn taptur, þegar hlánar, þú munt hann þá víst finna aptur.

4. Með öllu þínu höldnu hast heim til baka kemur, ei svo mikið ábatast, sem ómakinu nemur.

5. Nær þín egin barna börn beint þú litið hefur, bið þú guð þjer veita vörn, víst þín dauðinn krefur.

6. Stolsaðu ei svo stórum hjer, af stakri fegurð þinni, ein sótt henni umbreytir, áður enn þenkja kynnir.

7. Lát þinn veika veslíngs mann vel tilreiddan þreyja, enginn hlutur honum kann hamla frá að deyja.

8. Bergðu ei svo bísna títt á brennivínsflösku þinni, mun þá dauðans megnið strítt ei mæta þjer að sinni.

9. Haldirðu áfram hætti þeim, við háska drykkju öra, vatnsótt mun þín vitja heim, og vel afþyrstan gjöra.

10. Skuli áform þetta þitt, þægan framgáng hljóta, má hún lukka lánið sitt leggja þjer til bóta.

11. Meðan lukkan ljúf þjer ann, lengur þess ei freista, vinur þinn að verði hann, varastu á hann treysta.

12. Eptir vissum auð og seim er þjer betra' að leita, heldur enn gánga í grillum þeim, sem galinskap þjer veita.

*XIII.* Flokkur, Próserpína.

2. Nær um síðir saddur ert af sæmd og góðum dögum, hægur dauði breytir bert til betra þínum högum.

3. Orustu búna eg þjer sje enn á reisu þinni; farðu ei optar fastandi frá þínu heimkynni.

4. Umþenkíng þín ærið sterk ekki parið gildir, ef það færist ekki í verk, er þú gjarnan vildir.

5. Þú ert máttugt Martis barn, mennt sú ein þjer hlýðir: ætíð þjónir orkugjarn í orustum og stríði.

6. Þessi sjúki maður má mest þá hugsun rækja, lífi þessu' að leysast frá, láti hann prestinn sækja.

7. Deyr þá hver, er drottins greið dásemd

vill þess beiða, sál þína fyrir sætan deyð senn mun guð heim leiða.

8. Gleymskufullur gæt þín nú, er glatað þetta segir, sem burt ljeðir sjálfur þú, samt þess minnist eigi.

9. Vinátta hans er traust og trú og tállaus í allan máta, værir allt eins við hann þú, vel mætti' yfir láta.

10. Sæta túngu hefur hann og harla mjúkt orðfæri, hollan vin eg hjeldi þann, ef hjartað allt eins væri.

11. Við kauphöndlunar kæna list klókan þig eg segi, vart þó láti vel þjer fyrst, við hana hættu eigi.

12. Hræðstu ei! dauðans dælskugjörn dirfð þig kyrran lætur, uns þú sjerð þín barna börn, bæði syni og dætur.

*XIV.* Flokkur, Neptúnus.

2. Þú munt verða, það eg finn, þjóðlærðasti garpur, væri' eins góður viljinn þinn, sem vel er heilinn skaptur.

3. Lukkan ann þjer einna bezt í öllu, nema um þetta; en hvað heimskum yfirsjest, ei kann hann viðrjetta.

4. Fasteign enga fala þú, sem frekt ert umhugsandi, af sjóferðum er mín trú, öll þín lukka standi.

5. Deyf þú strax þitt drykkjurúss, drepast ella muntu innan næsta hóruhúss; heilræðunum unntu.

6. Engan færðu auðnu byr enn af ferðum þínum, heldur sittu heima kyr; hlýddu ráðum mínum.

7. Hryggist ekki þú af því, þótt að úngur deyir; hvern, sem fyrst kemst hafnir í, heppnastan jeg segi.

8. Allt eins þennan ætla' eg mann, og aðra fleiri vera, mikið góðan, meðan hann megnar ei íllt að gera.

9. Allt hvað viltu upp á slá, ertu lukku drengur, það skal öfugt áfram gá, eins og krabbinn gengur.

10. Á bezta aldri, eg það fann, áttu hjeðan deyja; æ, hvað margur ýngismann eptir þig mun þreyja!

11. Honum betur hentar prest, enn hollan læknir fánga, því hann ætlar utan frest, alheims veg að gánga.

12. Í gamni tók hann það frá þjer, og þinn kvaðst vinur vera, en óvíst, hvort hann ætlar sjer aptur til þín bera.

*XV.* Flokkur, Eólus.

2. Til annars þessi læknis laun er lángtum

betra' að spara, hinn sjúki, greitt þar gefst raun, til guðs mun hjeðan fara.

3. Heit skrifstofa hentar þjer, hana' ef fengir gerða, en þó kanntu krepptur hjer kann ske áður verða.

4. Nær penínga nægtum hjer nokkrum safnað hefur, dauðinn skal til drekka þjer, en dalina öðrum gefur.

5. Augu' hans stíng þú út þá sjer, og hann lýs í banni, það burt er gripið gefst ei þjer, en guð veit tökumanninn.

6. Ekki lukkast þetta þjer, þar af máttu hyggja, á svoddan grunni ótækt er, við akkeri að liggja.

7. Á hans máttu tryggð og trú treysta' í alla staði, ef það gjörir ekki þú, er það sjálfs þíns skaði.

8. Nær þú hyggur lífs á leið löngum safna dögum, brátt mun sá hinn bráði deyð brjála þínum högum.

9. Hvergi nærri, heims um stig, heljar ertu stundu, frá er svo verði fljótt um þig, sem flestir óska mundu.

10. Hreifi' eg engum hyggju spám um helför þína stríða, við þurrum vel þig vara trjám, en votum þarftu' ei kvíða.

11. Hlauptu, stattu hvergi við, hertu skeiðið fremur, þá mun útrjett erindið, er aptur heim þú kemur.

12. þessi reisa, það eg skil, þjer mun falla illa, ekki þjenar hún annars til, enn auð og tíma spilla.

## XVI. Flokkur, Ceres.

2. Önnur Rakel ofur vel eflaust máttu heita; sá þig leiðir loks í hel, er lífið skaltu veita.

3. þó við dauðann þetta sinn þenkir akkordjera, fremur er lítill fresturinn, frið vill hann ei gefa.

4. þegar lifa' hann þenkir bezt, og þinn ávinníng rækja, hættur dauði og helför vest heim þig gjörir sækja.

5. Enn þó sýnist ólíkt þjer, örvæntíng ei kvíðir, gjör þitt bezta, gegndu mjer, það gengur vel um síðir.

6. Vináttu hans virðist mjer, vandhitt á að rata, hann að sönnu þjenar þjer, en þó til síns ábata.

7. Til þín elsku beztu ber, sá burt með þetta vendi, svo þess vegna' hann segir þjer seint það laust úr hendi.

8. All kostgæfinn ertu víst, atvinnu þjer fala, reisa þessi samt mun sízt sinn kostnað betala.

9. Kynni virðíng, vizka' og gjald, að varna dauðans banni, fengi' hann aldrei eignar vald yfir þessum manni.

10. Hentugast mjer þykir það þínu lukkustandi, rólegheitum hallast að, hjer á þessu landi.

11. Lengur óska lífsins þjer, lítið mun á-vinna, sjálf náttúran hefur hjer heimtíng skulda sinna.

12. Meðan gengur þjer svo þvert, þín mun dauðinn bíða, en strax sem ríkur orðinn ert, á vill hann þig stríða.

XVII. Flokkur, Díana.

2. Þessi reisa allgóð er, og ábatasöm líka, ef svo margar fleiri fer, fljótt þig gjöra ríkan.

3. Í góðum friði' og hollum hag hjeðan muntu deyja, þá öðlast svoddan endadag eg vil heppna segja.

4. Þessum manni, það eg sver, þyrmir dauð-ans straumur, hans sjúkdómur ekki er, utan láta-glaumur.

5. Hugsaðu aldrei hann sje þjer hyggju flár í setri, svoddan vinur eflaust er öllu gulli betri.

6. Ef að tíu ár þú hjer enn lifir til baka, handverk eitthvert held eg þjer hollast upp að taka.

7. Þó erfitt veiti, samt um síð sækist þitt ástæði, öllum hlutum hagar tíð, hafðu þolinmæði.

8. Settu kistu híngað hans, hjervistin nú þrýtur, sefaðu allan sorgardans, því sælu gjöf þú hlýtur.

9. Fyr enn segir, fólkið muni' frá þjer stol-ið hafa, leitaðu allan af þjer grun, svo ekkert sje til vafa.

10. Dauðinn girnist ekki enn, að óska þín til veru, enn þó deyi margir menn, sem miklu betri eru.

11. Þú fremur allt til fjörtjóns þíns, frá þjer gjörðu hnegja flösku' og botjel brennivíns, ef blíðlega viltu deyja

12. Með kænskuna og klókleikann kríng þú getur farið; ef vildi ráð sitt vanda hann, vantar ekki parið.

## *XVIII.* Flokkur, Júnó.

2. Fyrir það þú ert fánýtt barn, færðu lánga daga, dauðinn er ei svo gleipigjarn, hann girnist þig að laga.

3. Af svoddan vinum Óðni er annar vel gefandi, til þess að hann síðan sjer sækir hinn í bandi.

4. Það er burtu, bróðir minn, þú brúkar seinni vara, athuga betur annað sinn, það áttu með að fara.

5. Það getur enga gagnsemd ljeð, þó girnist líf þitt teygja; á þjer geta allir sjeð, að heimilt átt að deyja.

6. Það sem misstir þú munt fá, þegar kanntu eygja snjó, sem foldu fleygðist á í fyrra', og burt nam þeyja.

7. Nóg hefur lukkan lánað þjer, láttu ei þetta heyra, öll þín nauðþurft uppfyllt er, ekki færðu meira.

8. Helzt þú girnist greitt með sann góðra daga njóta, þín ástkær börn og ektamann munt yfirgefa hljóta.

9. Fyrir þjer ætla' eg forsómist fátt, ef reisa þorir, áttu heima allra vest, eins og spilmenn vorir.

10. Undan sleppur enn sá mann, er dauðinn sjálfráður, í öllu verður hjeðan af hann hálfu verri' enn áður.

11. Andlátið að ætlun mín mun eins og lífið galið, gott væri' ef sálu gætir þín guði' á hendur falið.

12. Áform þitt fær þenna stað, það munu lýðir frjetta: allt að vindi verður það, sem viltu nú útrjetta.

## *XIX.* Flokkur, Mínerva.

2. Nær æskutíminn, orðin tjeð, og meydómur sprunda aptur fæst, svo færðu með það fyr gjörðir sólunda.

3. Dauðanum kvíddu víst ei við, hann vill þig eigi nýta, fyr enn þú í þriðja lið fær þitt afkvæmi líta.

4. Svoddan vinur, sem hann er, svíkur þig aldreii, hvað hann meinar hreint segir, hræsna kann hann eigi.

5. Þessi reisa þykir mjer þarflaus næsta vera, nema fjeð svo nóg hafir, að neyðist því spandjera.

6. Dauðastundin dregst að þjer, með döpru

borgarstandi, stærsti skaði einn það er öllu þessu landi.

7. Satan gefur gaum að því, nær geist að dauðinn herðir, sjá til að þú frjáls og frí fyrir honum verðir.

8. Dalanna áttu góða gnótt, þig gildir ei um fleiri, sjá til fyrst þú fáir sókt fjárplóg af þeim meiri.

9. Æskileg mun útför þín, því allvel lifað hefur, farsæll dauði, fyrir pín, frið og ró þjer gefur.

10. Um þitt töi þú aktar sízt, hvað af því verða megi, það er forlagt fyrir víst, en frá þjer tekið eigi.

11. Forsóma ei færi það, fríð sem lukkan tjáir, sýnt er ekki, síðar að svo gott annað fáir.

12. Þeim sjúka manni óhætt er, á því hafðu gætur, síbatnandi sótt hans fer, senn kemst hann á fætur.

## XX. Flokkkur, Marz.

2. Þenktu ekki' á þenna mann, þig vill hann í pínum, svoddan vinar vel eg ann vesta óvin mínum.

3. Að þjer hlotnist unnustinn, eptir þig mátt herða, með þjer annars mundi þinn meydómur grafinn verða.

4. Dauðinn skal þig fyrst ei fá, þó fyrir hans augum skínir, því ekki meiga af þjer sjá ástvinirnir þínir.

5. Ekki deyr hann enn svo hast, þó á því lit hann sýni, öll hans veiki orsakast af öli og sterku víni.

6. Farsæl burtför gleðigjörn gjörir þín senn að vitja, yfir þjer munu barnabörn og börn þín grátin sitja.

7. Lát ei ferð þá hindrast hjer, hættu reisu fresti, annars kemur þar af þjer og þínum skaði mesti.

8. Áform þetta ætla' eg þjer, allvel lukkast kynni, þá vatnsdropi enginn er eptir á sjávargrunni.

9. Festarmeyju fáðu þjer, þar fje nóg stendur saman, annars muntu aldrei hjer af auðnum hljóta gaman.

10. Lukkast allvel þetta þjer, það svo á mig bítur, þá Álptin svört að öllu er, en hann Krummi hvítur.

11. Á burt stolinn ekki sjest aura þinna sjóður, heima-hvinn eg vissi vest að varast, maður góður!

12. Þá höfuð þitt er af hærum grátt, hverfur efni nauða, við þá búast, mengrund, mátt miskunsömum dauða.



